# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga.*
*gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

14. árg. WINNIPEG, SEPTEMBER 1899. Nr. 7.

## Sálmur.

Eftir séra VALDEMAR BRIEM, út af Lúk. 1, 68—75

(Lag: Lofið vorn drottin, o. s. frv.).

1. Guði sé lof fyrir gæzkuna' og mildina sína!
geymdi' hann og verndaði' og frelsaði þjóðina mína.
Guði sé lof!
Guð, þér sé vegsemd og lof,
trygð fyrir trúfasta þína!

2. Guði sé lof, sem oss himneskan hjálpara sendi,
hertoga lífsins, að frelsa' oss af óvina hendi!
Guði sé lof!
Guð, þér sé vegsemd og lof!
Lofstír þíns enginn er endi.

3. Guði sé lof, sem ei gleymdi þeim sáttmálans orðum,
guð vorra feðra, sem Ísraelsmönnum hézt forðum.
Guði sé lof!
Guð, þér sé vegsemd og lof!
Standa þau stöðugt í skorðum.

4. Guði sé lof, sem var feðranna styrkur í stríði,
Stoð vor og niðjanna' og heldur oss enn þá við lýði!

Guði sé lof!
Guð, þér sé vegsemd og lof!
Lúti þér lýðir og hlýði.

5. Guði sé lof, sem um áranna' og aldanna ráðir
Ísraels guð er og mannkynsins náðugur faðir!
Guði sé lof!
Guð, þér sé vegsemd og lof!
Syngjum vér sælir og glaðir.

## Missíónarferðir.

Eftir séra Jónas A. Sigurdsson.

Yfir hinu síðasta kirkjuþingi hvíldi, í missíónarmálinu, norrænn trúboðsandi, eitthvert endurskyn af anda hinna kristnu, ágætu konunga, sem áttu svo mikinn þátt í kristnitöku feðra vorra, eitthvert brot af anda Ólafs konungs Haraldssonar hins helga, er fremur fór um ríki sitt og föðurland til að kristna það, en til að leggja land undir sig; sem hugsaði meira um kristnihald en skatta og Finn-ferðir.

Norrænn trúboðsandi kendi Íslendingum kristni. Og hinn sami andi ætti, að minsta kosti, að vera enn svo vakandi, að vilja viðhalda og varðveita sinn kristindóm. Hin fyrstu ár, eða hið fyrsta ár, kristindóms í föðurlandi voru, sintu menn trúboði,—og síðan ei. Til Grænlands, og jafnvel Vínlands (Ameríku) barst kristin trú frá Íslandi. Skyldi oss þá ekki langa til þess, að hún bærist út um bygðir landa vorra og varðveittist þar nú á þessari trúboðsöld?

Eins og ráð var fyrir gert á kirkjuþingi, hefi ég síðan farið tvær ferðir til bygða, sem engrar prestþjónustu njóta, aðra í júlí, vestur til Íslendinga sem búa í Mouse River-dalnum, hina í ágúst, austur til Rosseau-bygðarinnar í Minnesota.

Til Íslendinganna í Mouse River-dalnum hefi ég áður farið tvisvar: sumarið 1897 og vorið 1898, rétt áður en ég fór af stað til Íslands. Koma mín þangað var því, í vissum skiln

ingi, heimkoma, —koma til bræðra og vina. Hinn fyrsti hvatamaður til farar minnar þangað vestur var Jón Filippusson, skagfirzkur maður. Í þeirri ferð myndaðist þar söfnuður, Melanktons-söfnuður, er nú heyrir kirkjufélagi voru til.

Langflestir bygðarmanna tilheyra þeim söfnuði, ég held nálega allir. Átt hafa safnaðarmenn við lestrarsamkomur, á sunnudögum og hátíðum, og sunnudagsskólahald, en hvorutveggja er ábótavant, sem eðlilegt er, þar sem slíkt starf er í byrjun. Söfnuðurinn á ekkert húsnæði, sem ekki er heldur von, en guðþjónustur hafa nú í tvö skifti verið fluttar í ,,félagshúsi'', eða skólahúsi, sem stendur við ána, er bygðin dregur nafn af, á aðal bújörð Einars M. Vestfjörðs og sona hans. Þangað hafa lestrar verið sóttir og sunnudagsskólinn haldinn þar.—Alþýðuskóla-kennari þar er nú Þorsteinn Pálmason frá Hallson.

Ekki flutti ég í þetta sinn nema eina guðsþjónustu. Við hana gengu nokkrir til altaris. Ennfremur talaði ég yfir 3 leiðum, og skírði 10 börn. Alls hefi ég skírt í þessari bygð 31 barn, talað yfir 10 leiðum, fermt 6 ungmenni, tekið 50 manns til altaris, flutt 5 prédikanir og vígt grafgreit bygðarmanna.

Hvað sunnudagsskólahald snerti, snéri ég mér til Stefáns S. Einarssonar og Mrs. Davíðsson. Treysti ég þeim vel í því máli og vona eftir góðum árangri af iðju þeirra, þó sunnudagsskóla-hald út í sveit sé mjög erfitt verk.

Nokkrir safnaðarmenn hafa gerst kaupendur ,,Kennarans'' og lesendur ,,Sam.'', en langt of fáir. ,,Aldamót'' hygg ég að ekki hafi verið þangað send. Á það atriði er vert að minnast, því það hefir ekki litla þýðingu, hvort rit kirkjufélagsins eru lesin eða ekki. Auk þess að þar, sem þau eru lesin af mjög fáum, verður starf kirkjunnar ókunnugt og vanskilið, er það bein þörf fyrir fólkið að lesa eitthvert það rit, er talar máli trúarinnar og frelsarans, þar sem svo margt hefir gengið í þjónustu hins illa, og aldrei er þreyzt á að halda á lofti hinum óhollustu skoðunum, í ýmsum ritum, sem þjóð vorri berast nú. Það er hvorttveggja, að fólk út um bygðirnar styður ekki sem skyldi sín eigin kristindómsrit, sem flytja því hinar þörfustu hugvekjur, enda er of lítið unnið að út-

breiðslu þeirra. Íslendingar eru fremur hagmæltir en hagsýnir, eiga fleiri skáld en ,,business"-menn. Úr þessu þarf bráð-nauðsynlega að bæta. Pappír og prentsverta á ekki minsta þáttinn í menningar- og kristindóms-ástandi vorrar tíðar.

Bygð þessi er ung. Hinn fyrsti íslenzki landnemi flutti þangað 1887. Þó þangað hafi fluzt blásnauðir menn, er hagur þeirra nú sagður mjög góður. Alment eru menn þar mjög ánægðir, þó þaðan flyttu síðastliðið vor nokkrir búendur (um 50 sálir) til Canada. Til þessa hafa búendur stundað þar eingöngu íslenzkan landbúnað— kvikfjárrækt. Aftur eru nú nokkrir að byrja á jarðyrkju. Húsabyggingum er þar hvað helzt ábótavant, enda um engan skóg að gera, eða efnivið til húsagerðar, í grend við bygðina, sem í Nýja-Íslandi, Rosseau og víðar. Járnbrautir liggja 17 og 25 mílur frá landnámi Íslendinga,—að austan og sunnan. Mikill innflutningur er í sveitina, þó ekki af Íslendingum. Bygð þessi þykir máske ekki fögur, en hún er, þar sem Ísl. búa, mjög björguleg. Hvergi hefi ég séð annan eins grasvöxt, né svipaðan dugnað við heyannir, sem þar.

Á ferðum mínum þangað hefir mér verið tekið sérstaklega vel, og ekkert látið ógert til að styðja verk mitt, auk persónulegra vináttu-atlota, sem ég hefi mætt og þakka hér með. Söfnuðurinn hefir sjálfur samið við mig um þessar ferðir mínar þangað, og látið í ljósi ósk sína um frekari þjónustu frá minni hálfu í framtíðinni.

Guðmundur Frímann, ungur bóndi, hygginn og vel metinn, er formaður Melanktons-safnaðar. Hann er vafalaust með stærstu, eða stærsti íslenzki bóndinn vestan hafs.

Guð blessi allan hag fólksins þar, en einkum trú þess og kristindóm, og gefi kirkju vorri þar góð börn og guðelskandi menn.

---

Austur til hinnar nýju bygðar Íslendinga í Rosseau Co., Minnesota, fór ég svo í ágústmánuði. Vegir voru torfærir, og talsverðir meinbugir á því ferðalagi. Þó gat ég komist til landa minna fyrir sunnudaginn 13. ág. (11. s. e. tr.). Til

þeirrar bygðar hafa flutt ýmsir safnaðamenn mínir og vinir, sem reynzt hafa ágætlega hér í safnaðarstarfinu og öllu félagslífi. Einn kunningja minna og safnaðarmanna, Guðjón, sonur Guðvalda Jónssonar frá Hámundarstöðum og Kristínar konu hans, kom til móts við mig í Badger, sem er kauptún, næst landnámi Íslendinga, á póstleiðinni frá Stephen til Rosseau, höfuðstaðarins í hinu nýja Rosseau County.

Hjá Guðvalda og fólki hans hafði ég aðallega aðsetur mitt meðan ég dvaldi eystra, og var sem í foreldra höndum,

Á sunnudaginn 13. ág., flutti ég guðsþjónustu í húsi þjóðverja eins, sem hagnýtt er fyrir samkomur og skólakenslu. Var hún vel sótt, þrátt fyrir það, að messuboð höfðu ekki náð til allra bygðarmanna, sem líklegir eru til að sækja guðsþjónustur. Um 20 manns gekk til altaris. Eitthvað af börnum var og skírt, og skírði ég alls 7 börn meðan ég dvaldi þar. Pistill dagsins (11. s. e. t.) var einkennilega vel við eigandi, þar sem í hlut átti margt af mínu fyrverandi safnaðafólki: ,,En ég vil minna yður, bræður, á náðarboðskap þann, sem ég áður hef boðað yður og þér veitt móttöku, sem þér einnig hafið stöðuglega haldið við, og sem líka mun yður hólpna gera, ef þér geymið hann'', (1. Kor. 15, 1—10).

Daginn eftir gifti ég hjón, og var þar fjölmenni saman komið. Gat ég þar bæði minst við vini mína, og eins kynst ýmsum, er ég ekki áður þekti. Var sú viðkynning mér mjög ánægjuleg. Þetta var einnig hin fyrsta íslenzka hjónavígsla í hinni ungu bygð. Á þriðjudaginn flutti ég enn guðsþjónustu, í skólahúsi austar í bygðinni (skamt frá S. A. Anderson), sem skólastjórnin lánaði mér góðfúslega. Var enn sótt sæmilega, þótt mesti annatíminn stæði yfir, og ýmsir voru að búa sig til brottferðar—vestur til Dakota, í uppskeru-vinnu þar.

Að lokinni guðsþjónustu hélt ég fund með mönnum. Var á þeim fundi myndaður ev. lút. söfnuður, er nefnist Lúters-söfnuður. Söfnuður þessi var myndaður með nálega 120 nöfnum. Náði ég þó ekki til allra, sem áreiðanlega ganga í söfnuðinn. Sumir af mínum eigin safnaðamönnum, nýfluttir austur og búsettir Canada-megin, gátu ekki komið, ásamt fleirum. Safnaðarlög voru samþykt, kosin safnaðarstjórn og alt

búið undir inngöngu í kirkjufélagið, sem mér var falið að sækja um, fyrir hönd hins nýja safnaðar. Í stjórn safnaðarins voru kosnir: Pétur Pálmason, Elías E. Vatnsdal, Guðjón Guðvaldason, Matúsalem Peterson og Magnús Jónsson. Rætt var einnig um sunnudagsskólahald. Sökum strjálbygðar og ógreiðra vega, var ráðgert að segja börnum til á þremur stöð. um í bygðinni. Voru menn valdir til að annast þá kenslu, og vonandi að hún komist á fót. Í liðinni tíð hafa góðir menn eitthvað gengist fyrir sunnudagsskóla kenslu í sveitinni.

För mín til Rosseau-bygðarinnar tel ég ,,sólskinsblett í heiði'', bæði persónulega og frá kirkjulegu sjónarmiði. Viðtökurnar hjá fólkinu öllu, einkum því sem ég hafði áður kynst, og sem er of margt til að nafngreina hér, voru svo dæmalaust alúðlegar. Það bar mig bókstaflega á höndum sér. En þó var það mest gleðiefni, að það er vafalaust alvörumál hins kristna fólks að halda saman safnaðarlega.

Ónefndar ástæður og aðfarir, og sem af óvinum kristinnar kirkju hefði naumast verið þagað um, einmitt það, sem menn hafa óttast, en sem guð hefir þegar ,,snúið til góðs'', hefir opnað augu manna fyrir nauðsyn kristilegrar og safnaðarlegrar samheldni, og eins fyrir því, að ekki er alt yfirskinið og öfugstreymið, prettvísin og tálið *innan* kirkjunnar vébanda. Reynslan gerir manninn einatt hygginn, án efa eins í kirkjulegum málum. Eg trúi því, að Lúters-söfnuður dafni, og að Lúters nafnið ,,bægi sem Kerúb með sveipanda sverði'', eins og skáldið kvað, öllum kirkjulegum kveifarskap, allri andlegri hálfvelgju frá hinum litla lærisveina-hóp, sem hann hefir myndað, en minni á trúardjörfung og trúmensku í öllu andlegu starfi.

Heill og heiður þeim bygðum, þar sem andi siðbótarinnar minnist Melanktons og Lúters í nöfnum og í anda kristinna safnaða!

Ég ítreka það, hve innilega koman austur og kynni af fólkinu þar, hvað kristindómsmálin snertir, gladdi mig, og hve einlæglega ég vil þakka fyrir það,—biðja guð að auðsýna því aftur sinn kærleika.

Um bygðina skal ég vera fáorður. Mig furðaði hvað hún

er falleg og þur, í votviðra tíð. Þó vegir megi teljast litlir, verður ekið hindrunarlaust um alt. Bygðin er grasivafin, heyskapur afar-mikill, víða akurblettir, mörg hús ágæt, gnægð viðar, áin—Rosseau-á, sem kemur úr Mud Lake og fellur vestur í Rauð-á—er falleg, með fiski, jafnvel skelfiski, og malarbotni. Að líkindum bætist bráðlega úr hinni miklu fjarlægð frá járnbraut, er brautin frá Winnipeg til Port Arthur verður lögð fyrir norðaustan bygðina. Verður það vafaluust til stórra hagsmuna fyrir búendur á því svæði. Fólkið er ánægt; telur kjör sín bætt við flutninginn austur. Sér ekki frumbýlingsskapinn á hjá sumum bændum þar. Einn bóndi (Guðvaldur frá Hámundarstöðum) hafði verið þar tæpa tvo mánuði. Þó hafði hann þegar bygt stórt timburhús, mjög myndarlegt, peningshús og nálega lokið heyskap á þessum tíma. Ekki hefði hann getað afkastað því heima í Vopnafirði.

---

Ég minti á norrænan trúboðs-anda og Ólaf hinn helga í upphafi þessara orða. Andi hans var góður og verk hans til uppbyggingar kirkju Noregs, og jafnvel kirkjan á Íslandi,—að minsta kosti á Þingvöllum—, stendur í þakkarskuld við hann. En flestir Íslendingar muna hvernig með hann var farið, og á hvern hátt ríkið var unnið úr hendi konungs og fólkið lokkað til mótspyrnu og drottinssvika: með fégjöfum Knúts ríka og æsing ókristinna höfðingja, sem að eins hirtu um sinn hag, gegn réttlæti kóngs, sem refsaði jafnt ríkum og snauðum, vítti kristnispjöll hjá ,,þegn og þræl'', sem hugsaði meira um *kristindóm* en *konungdóm*. Jafnvel ástvinur konungs, Björn stallari, gerðist ginningarfífl gullsins. Og þegar Björn, fullur angurs og iðrunar, kom á konungs fund til að biðja sátta, var svarið: ,,Við erum sáttir. En bættu þetta við guð.''

Enginn hlutur má gera oss, hina norrænu menn, að ginningarfíflum hins illa, ekkert kaupa oss til uppreistar gegn konungi vorum. Við höfum þegar svo margt að bæta við guð!



## Agrip af sögu „General Councils".

(Framh.).

það var tilgangur leiðtoganna, sem unnu að stofnun General Councils árið 1867, að láta ráðstefnuna innibinda öll lútersk félög í Bandaríkjunum og Canada, sem væru ákveðin í því, að halda fast við játningarrit lútersku kirkjunnar. Að koma öllum slíkum félögum til að ganga í bræðralag og bindast eins frjálslegum félagsböndum eins og unt var, virðist hafa verið hið eina, sem vakti fyrir þeim leiðtogum. það var falleg hugmynd, og gjörðu þeir sér mjög glæsilegar vonir um þá blessun, sem mundi leiða af þeim félagsskap. Í fyrstu leit líka út fyrir, að þetta mundi ætla að hepnast; því á undirbúningsfundinum, sem haldinn var í Reading í Pennsylvania, árið 1866, áður en General Council var formlega stofnað, mættu fulltrúar frá því sem næst öllum lúterskum kirkjufélögum utan General Synódunnar. Jafnvel þau, sem fylgdu hinni allra ákveðnustu íhaldsstefnu, eins og Ohio-, Wisconsin- og Missouri-sýnódurnar, höfðu sent fulltrúa þangað.

En það gat þó ekki orðið, að General Council innibindi öll þessi félög. Ástæðan fyrir því var sú, að Ohio-sýnódan sendi fyrirspurnir til stofnþingsins 1867, sem þingið svaraði þannig, að sýnódan gat ekki verið ánægð með þau og afréð að ganga ekki inn í sambandið. Missouri-sýnódan gekk ekki heldur inn, og nokkur af þeim kirkjufélögum, sem gengu í sambandið í fyrstu, sögðu sig innan skams úr aftur, af sömu ástæðu.

Spurningarnar, sem lagðar voru fyrir fyrsta General Council-þingið, voru þessar:

1. Hver verður afstaða þessa félags-sambands gagnvart kenningunni um þúsund ára ríkið?
2. Mun það leyfa öðrum en meðlimum sínum að neyta heilagrar kvölmáltíðar við ölturu sín?
3. Mun það, undir nokkrum kringumstæðum, leyfa ólúterskum prestum að prédika í lúterskum kirkjum?
4. Hver verður afstaða þess gagnvart leynifélögum?

Ohio-sýnódan og hin önnur félög, sem eins litu á málin,

voru ákveðin í því að hafna öllum nýrri kenningum um þúsund ára ríkið; að veita engum altaris-sakramentið með sér, nema sínum eigin meðlimum; að leyfa ólúterskum prédikurum aldrei að prédika í lúterskum kirkjum; að útiloka alla þá, sem voru meðlimir einhverra leynifélaga. Þessi frægu ,,fjögur atriði" (four points) voru gjörð að skilyrði fyrir því, að þessi félög gengju inn. Þau hafa átt mikinn hlut í flokkaskiftingum og deilum lútersku kirkjunnar í Bandaríkjunum alt af síðan. Þau eru brúkuð af mörgum lúterskum kirkjufélögum, þann dag í dag, sem nokkurskonar prófsteinn til að reyna, hvort einstaklingar eða kirkjufélög séu lútersk eða ekki. Á þessu fyrsta þingi var General Council ekki reiðubúið að segja neitt um afstöðu sína gagnvart kenningunni um þúsund ára ríkið, og það hefir ekki enn gjört neina opinbera yfirlýsingu í því máli; en veitir prestum sínum kenningarfrelsi í því. Í næstu tveimur atriðum hefði líklega verið hægt að koma á samkomulagi, ef ekki hefði verið ágreiningur um hið fyrsta og síðasta.

Um síðasta atriðið var ef til vill hvað mestur ágreiningur. Í söfnuðum General Councils voru víða meðlimir leynifélaga, og var því félagið ekki reiðubúið að útreka og útiloka alla slíka menn, og það hefir heldur ekki enn verið gjört, þó rétt sé að geta þess, að meirihluti presta í General Council sé mótfallinn leynifélagsskapnum. En General Councilstefnan var ekki nógu ákveðin til þess, að hún gæti fallið Ohiosýnódunni og hinum öðrum félögum, sem eins litu á málið, í geð. Það, sem varð ágreiningsefni þá, aðgreinir þessi félög enn í dag.

Af þessu er mönnum líklega orðið full-ljóst, að miðlunarstefnan varð ofan á í General Council.

Í samræmi við augnamið þeirra, sem unnu að stofnun General Councils, að leggja áherzlu á hinn sértaka sannleika, sem drottinn hefir gefið lútersku kirkjunni náð til að sjá, var um langan tíma á kirkjuþingum þess aðallega rætt um hin sérstöku trúar-atriði lútersku kirkjunnar. Lengi framan af var heldur lítið unnið í praktíska átt, en á þeim

árum var lagður fastur trúarlegur grundvöllur undir framtíðarstarfsemina.

Ein stofnan hefir ef til vill átt meiri þátt í því, en nokkrar aðrar, að skapa þann sérstaka anda, sem einkennir General Council. það er prestaskólinn í Philadelphia. Hann var reyndar stofnaður rétt áður en General Council var myndað, og var þá undir stjórn Pennsylvania-sýnódunnar, en komst undir stjórn General Councils þegar það félag var myndað, og hefir sá skóli undirbúið flesta þá presta þess, sem hafa prédikað á ensku og þýzku.

Af öllum þeim prófessórum, sem kendu við þann skóla á fyrri árum, eru tveir menn, sem eru sérstaklega merkilegir, dr. C. P. Krauth og dr. B. M. Schmucker. Feður þeirra beggja voru prófessórar við prestaskóla General Sýnódunnar í Gettysburg, og var faðir hins síðara, dr. S. S. Schmucker, á sínum tíma leiðtogi þeirra manna í félagi sínu, sem minsta áherzlu vildu leggja á alt það sem er sérkennilegt við lútersku kirkjuna. Guðfræðis-mentun þessara tveggja ungu manna miðaði þess vegna alls ekki í þá átt, að gjöra þá stranglúterska.

Á fyrstu árum prestskapar síns höfðu þeir söfnuði í nágrenni hvor við annan, í afskektum dal einum í Virginia-ríki. þeir sömdu það með sér, að dvelja saman að minsta kosti eina viku í hverjum þremur mánuðum. þar að auki skrifuðust þeir oft á. Öll þessi samvinna þeirra miðaði í þá átt, að kynna sér betur hinn sanna grundvöll lútersku kirkjunnar. þeir lásu rit þýzku guðfræðinganna af kappi, og komust að raun um, að eitthvað mundi bogið við þáverandi guðfræðiskenslu í General Sýnódunni. því meir sem þeir lásu af hinni þýzku guðfræði, því meiri aðdáun fyltust hugir þeirra og hjörtu fyrir öllu sem er sann-lúterskt. þeir voru iðnir við verk sitt, þessir menn. Hér söfnuðu þeir kröftum, sem komu að góðu haldi seinna. Hér fæddist framtíðar-sefna ,,General Councils.

Dr. Krauth var lengi forstöðumaður prestaskólans í Philadelphia. Hann var ákafur starfsmaður; því fyrir utan starf sitt við prestaskólann, var hann ritstjóri að hinu enska

málgagni General Councils, og þar að auki prófessór í heimspeki við Pennsylvania-háskólann. Hann hafði mjög fjölbreyttar gáfur, og var lærdómsmaður mikill. Hann hafði á sínum tíma orð fyrir að vera lærðasti maður í Philadelphia. Í 10 ár var hann forseti General Councils. Frá þeim tíma að Generl Council myndaðist, barðist hann í ræðum og ritum, í prestaskólanum og utan hans, eindregið fyrir því, að halda því sem einkennir vorn kristindóm sem lúterskan. Hann er talinn að vera hinn mesti ensk-lúterski guðfræðingur, sem lúterska kirkjan hefur eignast. Hin merkasta bók, sem liggur eftir hann, og um leið hin merkasta lúterska bók, sem rituð hefur verið á ensku máli, er ,,The Conservative Reformation", og hefir hún inni að halda ritgjörðir sem lýsa hinu sanna ágæti lútersku kirkjunnar, og útskýringar á og sannanir fyrir því, sem hún leggur sérstaklega áherzlu á.

Það var verk þessara manna að grafa upp lúterska gullið, sem gleymst hafði, og sýna það kirkjunni. Það á heima um starf dr. Schmuckers, ekki síður en dr. Krauths.

Um leið og lútersk trúar-atriði höfðu fallið í gleymsku, hvarf mikið af lúterskum siðvenjum og tíðareglum. Að innleiða hið síðara var starf dr. Schmuckers. Það var mikið verk. Það þurfti að rannsaka ógrynni af hinum fyrstu, þýzku guðsþjónustuformnm. Með mikilli alúð vann hann að þessu í mörg ár. Hann var álitinn bezt að sér í þeirri grein af öllum samtíðarmönnum sínum í Ameríku, og þó lengra væri leitað. Guðsþjónustuform General Councils eru að miklu leyti verk hans, og ,,kirkjubók" þess félags, með sálmum, guðsþjónustuformum og mörgu öðru nytsömu, er líklega meira honum að þakka en nokkrum öðrum manni. Hann átti líka mikinn þátt í því, að vekja tilfinningu hjá mönnum í hinni ensk-lútersku kirkju fyrir fögrum, sann-lúterskum guðsþjónustum, ekki að eins í anda, heldur einnig að formi til.

Starf þessara tveggja manna leiddi ómetanlega blessun yfir General Council, og yfir lútersku kirkjuna í Bandaríkjunum í heild sinni. (Framh.)



## Frá Íslandi.

Eftir séra Jónas A. Sigurðsson.

V.

(Niðurlag.)

Til Akureyrar var komið um kveldið fyrir háttatíma. Hinn fyrsti maður, sem ég hitti þar, var séra Matthías Jochumsson. Honum þarf ekki að lýsa, En það eitt skal þó hér sagt, að vegfarandinn hittir trauðla blíðari og bróðurlegri mann en einmitt séra Matthías. þannig reyndist hann mér. Ég hafði ásett mér, að hagnýta tímann sem bezt og ríða út til Möðruvalla í Hörgárdal meðan skipið stæði við, og það gerði ég. Fann ég á Akureyri fornvin minn, Stefán Jónsson frá Munkaþverá, ásamt föður hans. Stefán dvaldi hér í Ameríku nokkur ár. Hann tók mig upp á eik sinn, og riðum við til Möðruvalla um nóttina.

Á Möðruvöllum er, sem kunnugt er, ein aðal kirkja norðanlands og gagnfræðaskóli Norðlendinga. Skóli sá er nú kominn í stað þess klausturs, er þar var stofnað fyrir munka 1295. Enda voru klaustrin nokkurs konar skólar, er varðveittu bókleg fræði, ýms forn rit og sagnir. Á þeim var og stunduð jarðrækt. Ýmsir höfðingjar og háyfirvöld sátu síðar á Möðruvöllum. En nú hefir skóli þessi og nemendur hans tekið arf eftir þessa frægu feður, og hafa nú með höndum mannaforræði í landinu á margan hátt,—þó þar sé nú hvorki munkalíf né amtmannssetur. þegar hugsað er um þessa mentastofnun finnur maður til þess, hve margt ber þess vott, að afkomendur Njáls eru misvitrir sem hann. Maður þarf að vera býsna „íslenzkur" til að geta skilið, hvers vegna sá skóli, sem er einungis bókleg mentastofnun, var settur þarna út í sveit—því engum datt í hug að vilja þannig útvega honum sveitfestu, eða koma honum *á sveitina*, í vissum skilningi. Vegfarandinn getur naumast farið um héraðið án þess að finna til þess, að sá skóli átti að standa á Akureyri. Allir, sem kynnast erlendu mentalífi og íslenzkri einangran, hljóta að finna til þess.

Eitt hið fyrsta, er ég sá á hinu forna höfðingjasetri, sem

enn er sveitarprýði, var kirkjan. Strax um nóttfna veitti ég því eftirtekt, að hún var með myndarlegri kirkjum á Íslandi, enda hafði ég heyrt það í æsku. Ég sá þegar, að yfir kirkjudyrum var einhver yfirskrift, sem, þó það sé alment erlendis, mun heldur fátítt á Íslandi. Venjulaga er það nafn kirkjunnar, sem þannig er skráð, t. d. þrenningar-kirkja, Sánkti-Pálskirkja, o. s. frv.—Ég þóttist vita, að þessi forna klausturkirkja mundi þannig nefnd eða helguð einhverjum postulanna eða dýrðling, þó ég hefði ekki heyrt þess getið, eða að þar stæði einhver ritningargrein eða sálmstef úr sálmum Hallgr. Péturssonar. En það brást. Letrið yfir kirkjudyrunum táknaði ekkert slíkt, heldur stóð þar nafnið: *þorsteinn Daníelsen.* það minnir heldur lítið á frelsarann, kristilega trúarjátning, hugsjón kristinna manna, eða eitthvað annað kirkjulegt og kristilegt, þetta nafn hins mikla atorkumanns. það má víst leita langt utan Íslands eftir annari eins kirkjuyfirskrift sem þessari. Mér dylst ekki hvernig á þessu stendur, og fjarri sé það mér að gera lítið úr manninum, sem nafnið bar. Ég tel hann „dýrðling" í öðrum skilningi; þykir beinlínis vænt um hann, þó ég sæi hann aldrei né heyrði. En önnur eins smekkleysa og þetta er blátt áfram skopleg, og opinberar óevangeliskan hugsunarhátt,—er verri en vanafestan, sem snýr kirkjuturninum á Akureyri upp í melinn, í stað þess að láta hann, eins og gert mundi um allan hinn kristna heim nema þar, snúa að firðinum og sveitinni. það má aldrei verða neitt aðal atriði, að turn og kirkjudyr „snúi rétt", eins og það mun nefnt, en líða svo aftur að fjölda margt í kirkjulífinu, innan kirkju og utan, snúi öfugt. það hefir jafnan reynst rétt, sem annað orð drottins: að bókstafurinn deyðir, en andinn lífgar.

Dvöl mín á Möðruvöllum hlaut að vera stutt, bæði vegna burtfarar skipsins og þess, að séra Matthías hafði sagt mér, að héraðsfundur Eyfirðinga ætti að haldast á Akureyri þá um daginn um hádegisbil. þangað langaði mig til að koma, enda hvatti hann mig til þess. það var sá fyrsti héraðsfundur, sem ég átti kost á að sjá, og ég gat húist við að það yrði hinn síðasti. Ennfremur var dagurinn, 24. júní, bæði þingsetningar-

dagur kirkjuþingsins vestra í Winnipeg, sem ég var þá sérstaklega að hugsa um, og sömuleiðis kristnitökudagur á alþingi í fyrndinni, árið 1000. Raunar var ég ferðlúinn og svefnlítill, en ég lét það ekki hamla för minni. Veður var heitt, einn heitasti dagurinn, sem ég man eftir á Íslandi. Engan farartálma lagði náttúran þá fyrir menn. Raunar hömluðu veikindi sumum prestunum að sækja fundinn. Sex prestar úr prófastsdæminu sóttu fundinn og eitthvað af fulltrúum, en ekki varð hann lögmætur. Enginn nágrannaprestanna úr Þingeyjarsýslu sótti þangað, og ekki voru þar nema tveir eða þrír utanfundarmenn. Fundurinn var ekki haldinn í kirkjunni, heldur í barnaskólahúsi bæjarins. Engin guðsþjónusta var flutt, því sá prestur, sem falið hafði verið að prédika, kom ekki, að sögn, fyrr en fundi var lokið, og var þó búsettur ekki all-langt fra Akureyri. Ekki vissi ég til þess, að sunginn væri sálmur eða bæn flutt. Augsýnilega var mönnum ósýnt um fundarreglur, og var það sök sér. Því miður náði hiti dagsins ekki til fundarins. Fundarmálin voru, mér liggur við að segja, veraldleg, snertu einungis hina ytri, gjaldalega hlið safnaðarlífsins, og ættu fremur heima á safnaðafundum en héraðsfundum: Laun organista, stækkun kirkjugarða, barnapróf, skýrslur og skýrsluform, m. fl. Ekki var þar talað um trúmál, ekki um hina innri hlið kirkjulífsins, ekki nm trúboð, ekki um kirkjuleg rit, ekki um kristindómshorfur. Hið eina mál, sem snerti þá hlið eða gat nálgast hana, var mál um helgidagabrot. Nokkrir fundarmenn töluðu um það af áhuga, að virtist, og mjög myndarlega. Samt varð nú niðurstaðan ekki önnur en sú, að prófastur skyldi skrifa hreppstjórum embættisbréf, og þannig minna menn á lögin. En það, sem mér sárnaði mest, var, að þetta eina áhugamál, um helgidagabrot, fiskiveiðar og skot á sunnudögum þar við fjörðinn, deyr í höndum fundarins. Einn utanfundarmaður, og yfirvald, bað sér hljóðs og lýsti yfir því, að hin núverandi sunnudaga-löggjöf, sem friðaði allan sunnudaginn, væri að kenna prestum, sem sátu á þingi þegar þau voru samþykt; hentugast væri að fá lög, sem að eins friðuðu part dagsins. Þeim lögum hefði hann verið með, og mundi framfylgja.—Náttúr-

lega væri ekki um lagabrot að ræða *ef engin* lög væru til, og þangað virðist slík tillaga eða hugsan stefna. En svo urðu allir á máli þessa manns, eða annað varð ekki séð. Einn gáfaður prestur gat þess, eins og hálf-afsakandi, að fleiri en prestarnir í þinginu hefðu verið með hinni núgildandi löggjöf um helgihaldið. Loks kom einhverjum til hugar, að reynandi væri, að *fundurinn* sendi *kirkjustjórn* landsins áskorun um, að hún leggi fyrir næsta *þing* frumvarp til laga er gangi í sömu átt og þau lög, sem bent var á, og sem eitt þingið hafði hafnað, að því er fram kom, meðfram fyrir réttmæta mótspyrnu prestanna, er sæti áttu á því þingi!

Raunalegt er það annars, hve mörg einkenni kristindóms Hákonar konungs góða eru enn auðsæ á kristindómsstefnu margra manna, sem eru annars sannir ágætismenn, eins og hinn góði konungnr. Enn neyða þrændur Hákon hinn góða til að blóta og gína yfir ketilhöddunni, eins og lesa má í sögu hans, og enn líkar hvorugum vel. — Mér er Hákon konungur kær, og sumir menn sömuleiðis, er eitthvað svipar til hans, virði þá og elska og vorkenni þeim. En stefnan þeirra er varasöm, og ekki líkleg til sigurs fyrir kirkju Íslendinga nú, fremur enn kristniboðið meðal Norðmanna þá.

Sorgleg yfirsjón er það annars, að hollvinir kirkjunnar skuli, í málum eins og helgihalds-málinu, gleyma eða ganga fram hjá þeim persónulegum áhrifum, sem prestar og kristnir, löghlýðnir meðlimir safnaðanna gætu haft á meðvitund manna í þessum og öðrum kristnispjöllum, en í þess stað nálega ávalt fara *lagaveginn* að náunganum, í gegnum embættisbréf prófasta og kirkjustjórnar, hreppstjóra og sýslumanna. Ekki er von, að kirkja Íslands eigi mikinn hlut í hjarta fólksins, á meðan slík aðferð er tíðkuð.

Vanhelgun hvíldardagsins er sorgleg á Íslandi, og verður það meðan kirkjuræknin er í núverandi ástandi.—Menn þurfa ekki að sjá fiskiveiðar né heyra sunnudagaskot við Eyjafjörð til þess að sannfærast um það. það er nóg að lesa Reykjavíkur-blöðin. — þar er alt mögulegt auglýst—auk heldur iðkað—á sunnudögum, dansar, leikir, og allskonar tröllа-athæfi.

Í fyrra sumar var í einu helzta héraði landsins merkur

prestur í nefnd, er stóð fyrir þjóðminningardags-hátíðarhaldi. Og svo auglýsir nefndin hátíð þessa mjög hátíðlega í blöðunum og að hún skuli haldin á *sunnudag!*

Og það er vissulega óþarft, að biðja um meiri lög og lagaþras, en nú er þegar til, heldur ætti að biðja um meiri löghlýðni, meira af lifandi kristindómi, sem á málfrelsi og atkvæðisrétt í daglegu lífi manna,—um það ættu allir góðir menn að biðja fyrir þjóð vora og alt líf hennar, heima og hér vestra.

---

Ný forleggjara-stofnan er komin á fót í Pittsburg, Pennsylvanía. Hún nefnist „The American Lutheran Publication Board", og er undir stjórn Missouri-sýnódunnar, hinnar ensku. Er það ungt og lítið kirkjufélag, sem hefir vaxið út úr hinni alþektu Missouri-sýnódu, þýzku, og fylgir barnið algjörlega stefnu móður sinnar. Þessi forleggjara-stofnan gefur út eingöngu enskar bækur og blöð. „Sam." hefir verið sent, sem sýnishorn, 25 smárit um lúterska trúfræði, eitt atriði tekið fyrir í hverju riti, framsett þannig, að almenningur geti haft gagn af því. Ennfremur hefir oss verið send gjörðabók síðasta kirkjuþings Missouri-sýnódunnar ensku, vel prentuð og fallega útlítandi. Á tvent virðist þetta þing hafa lagt sérstaka áherzlu: enska tungu sem framtíðarmál, og safnaðarskóla í hverjum söfnuði, þar sem kristindómurinn sé kendur börnum ásamt öðrum námsgreinum.

---

Í kirkjuþings-tíðindunum í síðasta blaði, í uppástungu séra Björns B. Jónssonar í sálmabókarmálinu, hafa, af vangá, á eftir orðinu, „kirkjuathafnaformum", fallið burt þessi orð: „og með söngnótum við sálmana." Þetta eru lesendur „Sam." beðnir að athuga.

---



---

„SAMEININGIN" kemur út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vesturheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrirfram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Rúnólfur Marteinsson og Jónas A. Sigurðsson.

---

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.